# Sameiningin.

*Mánaðarrit til stuðnings kirkju og kristindómi Íslendinga.*
*gefið út af hinu ev. lút. kirkjufélagi Ísl. í Vestrheimi.*

RITSTJÓRI *JÓN BJARNASON.*

16. ÁRG. WINNIPEG, DESEMBER 1901. NR. 10.

## Hinir þrír vitringar úr Austrlöndum.

Eftir GRUNDTVIG.—Þýðingin eftir Steingrím Thorsteinsson.

———

(Með sínu lagi.)

1. Fríð er himins festing blá,
fagrt þangað upp að sjá;
gullnar stjörnur broshýrt blika,
benda þær með ljósið kvika
oss frá jarðheim upp til sín.

2. Komið hér og hlýðið á,
hjartakæru börnin smá!
Öld hve lýsti undrstjarnan,—
á það víst þið hlýðið gjarnan,
himinn ykkr heyrir til.

3. Þá var hljótt og þá var rótt,
þetta var um jólanótt;
aðrar stjörnur all-dauft loga,
allt í einu' á himinboga
stendr lítil stjörnusól.

4. Fjær í Austrálfu þá
einn, er stjörnur skyn bar á,
leit úr turni ljósið þetta
lýsa' í stjarnahópnum þétta;
barnglöð varð þá vitrings lund.

5. Sú er stjarnan sæist heið
svalt um miðrar nætr skeið,
fornspá kvað, er kraftr fylgdi,
kóngr einn að fæðast skyldi
öllum kóngum œðri' á jörð.

6. Aldinn þulr af því vann
austrs kætast nú í rann,
að hann þráði þeli gjörnu
þessa' að líta konungs stjörnu
fyrr en gröfin geymdi sig.

7. Kóngs til hallar hóf hann för,
hilmir speking þekkti gjör;
gladdist næsta nú við þetta,
nýupprunna stjörnu' að frétta
svo sem innti' in aldna spá.

8. Þá í för hins mæta manns
milding slóst og sonr hans;
vildu halir hilmi finna,
hilmi þessum göfgun inna,
fyrir skemmstu' er fœddr var.

9. Stjarnan vegar birti braut,
beint í Jerúsalems skaut;
þar þeir leita lofðungs ranna,
lofðung finna', en ei þann sanna,
er sú leit var eftir gjörð.

10. Stjarnan fœrist brátt um bil,
Betlehems þá leiðir til.
Yfir kofa litlum, lágum
logaskær á himni bláum
allt í einu stillt hún stóð.

11. Gengu' í kofann glaðri lund
gumar þrír á samri stund;
kóngs ei sást þar sætið glæsta,
sat þar kona fátœk næsta,
barni' í kjöltu rugga réð.

12. Þar samt finna aftr enn
Austrheimsins vitru menn

stjörnu', er lýsti lofts um bauga,
lýsti hún í barnsins auga
blíð og mild og birturík.

13. Sú þeim jarteikn sönnun var,
sannan Krist að litu þar;
bragnar lutu' og hjarta hrœrðu
honum ilmreykelsis- fœrðu
fórn í skálum skíra gulls.

14. Viljið þið ei líta líka,
litlu börn mín! stjörnu slíka?
Lúta kóngi líknargjörnum,
ljúft er opnar smáum börnum
ríki guðs af gœzku' og náð?

15. þið ef horfið himins á
hvolf með gullnum stjörnum smá,
ei þá stjörnu' er unnt að sýna,
inni þar samt mundi' hún skína
yfir Jesú stillis-stól.

16. því það barn á foldu fœtt
fremsta konungsvaldi' er gætt,
sitr æ með ásýnd skærri,
öllum stjörnutindum hærri,
við guðs föður hœgri hönd.

17. Honum, smábörn! hneigið þér,
hann úr hæðum víst það sér;
ástarhug í upphæð vendið,
yðar lofgjörð honum sendið;
hún er ilmfórn honum þekk.

18. Vitringana' úr austrátt
áfram leiddi stjarna' um nátt;
til er einnig önnur stjarnan,
ef þið henni fylgið gjarnan;
þá til Krists þið komizt víst

19. þessi stjarnan helg og há,
hún, sem aldrei villa má,

guðdóms-orðið er hið skæra,
er á jörð hann réð oss fœra,
að það vorri lýsti' á leið.

## Vitnisburðr,

*sem Lúter gefr músíkinni.*

Eg vildi hjartans-feginn víðfrægja og vegsama sönglistina, músíkina, þá fögru og dásamlegu gjöf guðs. Og eg finn til þess, að gagn hennar er svo mikið, og að hún er svo göfug og ágæt íþrótt, að eg veit ekki, hvorki hvar eg á að byrja að lofa hana, né heldr hvar eg á að enda, né heldr hvernig eg á að fara að því að víðfrægja hana eins og sanngjarnt væri og eins og hún ætti að vera mikils metin og í heiðri höfð af öllum. Lofið, sem íþrótt þessi verðskuldar, er svo mikið og víðtækt og þungt á metum, að eg rís ekki undir því. Mig brestr mátt til þess að halda heiðri þeim öllum á lofti, sem hún verðskuldar. Því hver getr þar sagt allt það, sem segja má. Og þótt einhver feginn vildi segja allt, þá myndi hann þó gleyma mörgu. Það er — í einu orði talað — ómögulegt að vegsama þessa hágöfugu íþrótt nógu mikið.

Fyrst og fremst er þess að geta, að sé rétt litið á mál þetta, þá sýnir það sig, að guð hefir frá upphafi veitt öllum skepnum list þessa, og að hún er þeim meðfœdd. Því að enginn sá hlutr er til í heimi, að ekki gefi hann hljóð frá sér. Þannig má að vísu virðast, að loftið, sem í sjálfu sér hvorki verðr séð né þreifað á, hafi alls enga músík, það er að segja hljóð eða hljóm, í sér, heldr að það sé með öllu hljóðlaust, steinþegjanda. En ef það með einhverju móti er sett í hreyfing, þá gefr það þó hljóð frá sér. Þótt áðr ríkti þar þögn, þá tekr það nú til að hljóma, svo að vel má heyra og finna til. Þetta lætr guðs andi tákna mikla og dásamlega leyndardóma, sem snerta oss; en um það ætla eg ekki að tala nú.

Þar næst er í öðru lagi að hugsa um músík dýranna, og þá einkum fuglanna, hinar syngjandi raddir þeirra, kvak þeirra og klið. Þar er músíkin á enn hærra stigi.

Ó, hve dýrðleg er sönglistin, sem drottinn almáttugr á

himmun hefir af gœzku sinni lagt söngmeistara sínum, nætrgalanum, til og hinum ungu lærisveinum hans, og svo mörgum þúsundum annarra fugla loftsins. Því að hver fuglategund út af fyrir sig hefir sitt sérstaka sönglag, sína sérstöku rödd, fagra og inndæla, sinn sérstaka dásamlega hljómblæ, svo að enginn maðr á jörðinni fær það skilið. Það vottar og Davíð konungr, söngvarinn ágæti, sem syngr og leikr á hörpu sína hina guðdómlegu sálma, þar sem hann í 104. sálminum í spámannlegum guðmóði lætr þessi orð falla: „Hjá þeim búa himinsins fuglar og syngja í greinum trjánna."

Og hvað á eg að segja um mannsröddina? Því í samanburði við hana verðr allr annar söngr og hljómr, sérhvert annað hljóð, svo að kalla að engu. Því af náð sinni hefir guð lagt manninum svo mikið til af músík, að þótt ekki sé tekið tillit til neins annars en þeirrar gáfu, þá er þó ríkdómsfylling gœzku hans og speki með öllu óskiljanleg. Vitrir menn og lærðir hafa beitt allri orku skynsemi sinnar til þess að rannsaka og skilja leyndardóm mannsraddarinnar, en þeim hefir ekki tekizt það.

Nú ætti eg einnig að segja eitthvað um gagn þessarar göfugu listar. Gagnið er svo mikið, að enginn, hversu mikill mælskumaðr sem er, getr lýst henni eins og hún er. Það að eins get eg nú tekið fram, sem reynslan líka staðfestir, að næst á eftir hinu heilaga orði guðs er ekkert til, sem á það skilið, að lofsorði sé á það lokið, eins og músíkin, — og það fyrir þá sök, að hún ræðr öllum hreyfingum mannlegs hjarta, og leiðir og sigrar mennina með drottinlegu afli.

Því að ekkert á jörðinni hefir meiri mátt til að gleðja syrgjendr, hryggja fagnendr, hughreysta ístöðulausa, auðmýkja stœriláta, deyfa og slökkva taumlausa og óhóflega elsku, draga úr hatri og bakmælgi. Og hver fær bent á allar hugarhrœringar mannshjartans, þær er laða menn eða reka ýmist til dyggðar eða ódyggðar? Að leggja haft á slíkar geðshrœringar og stjórna þeim — til þess hefir ekkert eins mikinn mátt eins og músíkin. Heilagr andi sjálfr lofar líka og víðfrægir þessa göfugu íþrótt sem verkfœri hans eigin embættis, því hann vottar það í heilagri ritning, að gafir hans, það er að

segja hvatirnar til allskonar dyggða og góðverka, hafi komið til spámannanna með músíkinni. Þannig sjáum vér, að þegar Elísa er í þann veginn að tala af spámannlegri andagift, þá skipar hann svo fyrir, að harpslagi einn sé til hans fœrðr, og meðan sá maðr slær strengi hörpunnar — þá kemr andi drottins yfir spámanninn o. s. frv. Enn fremr vottar ritningin, að satan, sem eins og kunnugt er tælir menn til allskonar ódyggða og lasta, verði með músík burt rekinn. Þannig segir um Sál konung, að þegar hinn illi andi kom yfir hann, þá hafi Davíð tekið hörpu sína og leikið á hana. Og að þá hafi Sál orðið léttara. Hann endrnœrðist og hinn illi andi veik frá honum. Það er því ekki ófyrirsynju, að hinir heilögu feðr og spámennirnir hafa orkt margsháttar sálma út af guðs orði og sett við þá breytileg lög, til þess að kirkjan gæti haldið músíkinni hjá sér. Þess vegna höfum vér svo marga dýrmæta söngva og sálma, sem bæði með orðum sínum og einnig með hinum hljómfögru lögum, sem við þá eru sett, hrífa mannshjartað. Hjá dýrunum heyra menn að eins sönginn, röddina, hljóminn. Eins þegar leikið er á hörpu eða önnur hljóðfœri. En maðrinn einn hefir það fram yfir allar aðrar skepnur, að hann með röddinni hefir fengið hœfileik til að tala, til þess hann gæti haft vit á að lofa guð bæði með orðum og söng, — gæti með málfœrinu látið út frá sér ganga hljómfagra prédikan guðs náðar, þar sem hvorttveggja heyrist í einu: fögr orð og unaðslegir tónar.

En sé menn saman bornir við menn og raddir þeirra athugaðar, þá verðr opinbert, hve dýrðlega auðugr og margbreytilegr er sköpunarkraftr guðs, þar sem röddunum hefir svo misjafnt verið úthlutað. Sá undra-munr, sem er á röddum og máli mannanna! Sumir eru þar öðrum svo miklu ofar. Það er sagt, að engir þeir tveir menn sé til, sem tali nákvæmlega eins eða hafi nákvæmlega sama málróm eða framburð, jafnvel ekki þótt sumir leggi sig alla fram til þess að tileinka sér annarra manna sérkenni, beinlínis api eftir öðrum. En þegar hin náttúrlega músík er með hjálp íþróttarinnar fullkomnuð og fáguð, þá fyrst má að nokkru leyti með undran sjá og skilja — því fullkomlega er það ómögulegt — hina miklu, full-

komnu speki guðs í hinu dásamlega verki hans, músíkinni. Og er það þar sérstaklega dásamlegt, að jafnframt því er einn syngr lagið sjálft blátt áfram, eða *tenorinn*, sem svo er nefndr á máli söngfrœðinga, eru sungnar þrjár, fjórar eða jafnvel fimm aðrar raddir. Og þessar aðrar raddir leika sér og hoppa eins og með fagnaðarlátum í kring um hina einföldu aðalrödd, *tenorinn*, prýða hana og skreyta undrsamlega með margvíslegri hljómbreyting, stíga svo að kalla himneskan kórdans umhverfis hana, nálgast hana allt af annað veifið með vinsemd, láta vel að henni og vefja hana í örmum sér. — svo að sá, sem ofr lítið vit hefir á og kemst við af því, er hann heyrir, hlýtr að verða stórkostlega forviða og hafa fyrir satt, að ekkert sé til í heimi dásamlegra en slíkr söngr, prýddr mörgum röddum. Ó, sá sem ekki langar neitt í músík, sá sem ekki elskar hana og ekki kemst neitt við af því inndæla furðuverki, hann hlýtr að vera mjög grófgjörðr drumbr. Og sannarlega á sá maðr ekki skilið að heyra hina unaðslegu músík. Rímnagaul eða hunda-spangól eða svína-org er nógu gott handa honum.

En hví að eyða svo mörgum orðum um þetta efni? Það er fyrir þá sök, að nytsemi þessarar göfugu listar er langt um meiri en frá verði sagt í stuttu máli. Eg vil því mæla með íþrótt þessari við alla, en einkum við œskulýðinn. Og áminna það fólk allt um að meta þá dýrmætu, gagnlegu og upplífgandi gjöf guðs stór-mikils, hafa hana í mesta heiðri. Því ef œskumaðrinn gjörir það og iðkar íþróttina kostgæfilega, mun honum með því takast að reka burt frá sér illar hugsanir og forðast vondan félagskap og aðrar ódyggðir. Þar næst eiga unglingar líka að venja sig á að kannast við guð í músíkinni —, hann, sem sú gjöf er frá, — og lofa og vegsama hann fyrir hana, og vandlega varast og umflýja þá, sem spillt hafa sjálfum sér með óskírlífi og misbeita svo þessari fögru náttúru og íþrótt — eins og ósiðleg skáld fara með sína íþróttargáfu — til syndsamlegrar og saurugrar ástar, — og vera þess fullvissir, að slíkir menn láta djöfulinn koma sér til þess á móti náttúrunni. Því að náttúran á með þessari dýrmætu gjöf að eins að heiðra og vegsama guð, skapara allra skepna,

og það gjörir náttúran, ef hún má ráða. Þar sem aftr á móti þessir illa innrœttu unglingar og umskiftingar hafa látið illar girndir koma sér til þess að hrífa gjöf þessa burt úr þjónustu drottins guðs til þess með henni að heiðra satan, óvin guðs, náttúrunnar og þessarar fögru íþróttar, og þjóna honum.

Að svo mæltu fel eg yðr alla varðveizlu drottins.

---

## Jólaljóð.

Eftir Sigurd J. Jóhannesson.

---

(Lag: „Enn ljómar skært í austr-átt"—sjá „Sam." X, 10.)

Þá dundu styrjar hretin hörð
og heimr stóð í voða,
til frelsis oss sinn frið á jörð
kom frelsarinn að boða.

Hann friðarboðskap flutti lýð,
en fáir menn þá skildu' ann;
þá heimr blóðugt hugði' á stríð,
ei hlusta' á slíkt því vildi' ann.

---

Þó dynji vetrar hretin hörð
og hóti lífi voða,
vér fögnum, því sinn frið á jörð
kom frelsarinn að boða.

Nú andar friðar blíðr blær,
er böls má skýjum varna;
í heiði ljómar hrein og skær
sú helga jólastjarna.

Nú blika trúar björtust ljós
og birtu veita sanna;
í sæludraum með sigrhrós
menn syngja *hósíanna*.

---

Þess gætið ávallt börnin blíð,
sem brýnust vor er skyldan,
að hylla frið, en hata stríð
og heiðra drottin mildan.

þótt enn þá vari voleg stríð
og vökvi jörð í blóði,
mun síðar koma sælli tíð
og sannr friðargróði.

## Á bœnadegi.

Í „Minneota Mascot", hinu enska vikublaði, er hr. G. B. Björnsson gefr út, stendr prédikan ein prýðis-fögr, sem séra Björn B. Jónsson flutti á allsherjar-bœnadag (Thanksgiving day) Bandamanna þar í bœnum (Minneota) 28. Nóv. síðastl. í áheyrn fjölda fólks.

Texti rœðunnar er upphaf drottinlegrar bœnar—þessi orð: „Faðir vor, þú, sem ert á himnum!"

Fyrst er þar talað er um bœnina til guðs almennt og meðal annars tekið fram, að allir mestu mennirnir, sem vér þekkjum frá liðnum öldum, hafi verið bœnarinnar menn og mestu stundirnar í mannkynssögunni hafi verið bœnarstundirnar. Síðan er sérstaklega talað um bœnina sem þakkargjörð, og er það meginmál rœðunnar. Þar er nákvæmlega gjörð grein fyrir því, hve mikið það sé, sem Ameríkumenn hafi guði fyrir að þakka út af því að eiga heima í hinu mikla, frjósama og auðuga frelsislandi — Bandaríkjunum. Síðan er bent á það ríki sérstaklega, sem rœðumaðr og fólkið allt, er á hann hlustaði, heyrir til (Minnesota), bœinn, þar sem rœðan var haldin (Minneota), og hina blómlegu sveit umhverfis þann bœ, til þess að sýna, í hve mikilli þakklætisskuld fólk þess ríkis, þess bœjar og þeirrar byggðar standi við guð fyrir blessan þá, er því veitist sameiginlega þar heima fyrir. Loks er talað um þakklætisskyldu hvers einstaklings út af fyrir sig út af meðlætinu og mótlætinu, en umfram allt út af því að hafa tœkifœri til þess að lifa í trúnni á Jesúm Krist.

Rœðan öll er snilldarverk og í kristilegu tilliti stór-uppbyggileg.

Svo sem við mátti búast er í prédikan þessari ítarlega minnzt á sorgaratburðinn mikla, sem komið hefir fyrir í Bandaríkjunum á þessu ári — píslarvættisdauða McKinley forseta.

Vér komum hér með brot af þeim parti ræðunnar í mjög lauslegri þýðing:

,,Vér beygjum höfuð vor með djúpri blygðunartilfinning, er vér hugsum um það, að hinn góði og ástsæli þjóðhöfðingi vor skuli hafa verið myrtr. Í auðmýking vorri spyrjum vér sjálfa oss, hvort vér í rauninni heyrum til kynslóð föðurlandssvikara. Vér minnumst þess nú með sárari sektartilfinning en vér stundum viljum við kannast, að á einum mannsaldri höfum vér deytt þrjá forseta. Á Englandi var konungsveldi grundvallað fyrir níu hundruð árum. Og á öllu því tímabili hefir að eins einn af stjórnendum þess ríkis verið deyddr, og við líflát þess eina konungs var þó að minnsta kosti látið líta svo út sem þar væri farið eftir landslögum. Er forsetum vorum ekki eins óhætt og konungum gamla heimsins? Vér erum stungnir í hjartastað út af slíkum spurningum. Og vafalaust eru þeir menn til, sem finnst, að vér getum ekki lyft upp höndum vorum til að þakka guði á þessu ári fyrir þá sök, að þær eru flekkaðar af blóði forseta lands vors. Svo geta og aðrir verið, sem finnst, að guð hafi ranglátlega við oss breytt, þar sem hann hafi leyft, að hann væri frá oss hrifinn á þennan ömurlega hátt og þar með brennimark háðungarinnar sett á þjóðernislegt mannorð vort.''— — —

,,En er hönd guðs með öllu ósýnileg í þessu skelfilega böli? Myndi ekki hér kenna hinnar mildilegu handar drottins? Og myndi ekki óhætt að trúa því, að hún hafi hér lagzt þungt á oss sjálfum oss til góðs?''

,,Leyfið mér að staðhœfa það, þótt ef til vill geti virzt öfgar, að vér höfum sem þjóð fallið í voðalega stórsynd— synd hégómlegs yfirlætis.''

,,Yfirlætissyndin myrti forsetana vora alla þrjá, sem urðu fyrir píslarvættisdauðanum.''

(Síðan minntist ræðumaðr á hvern um sig af mönnum þeim, er myrtu þá Lincoln, Garfield og McKinley, og sýndi fram á, að hégómaskaprinn hefði hrundið þeim öllum á stað til að drýgja voðaverkið.)

,,Vér berum að nokkru leyti ábyrgðina fyrir hégómaskap þennan, því að þessi œðisgengna frægðarfýsn er orðin að alls-

herjar þjóðarsýki. Menn keppast með svo mikilli áfergju eftir hinum ,efstu sætum', eftir því að sér sé sungið lof, að afleiðingin hefir orðið, að margir hugsa um ekkert annað en það að sýnast. Og með því að hœglega má kaupa sér frægð með peningum, erum vér einatt sem óðir af fjárgræðgi og tölum vakandi og sofandi um peninga."

,,Og í hégómaskapar-œði voru og gróðafíkn hurfum vér burt frá guði. Vér lokuðum biblíunni á heimilum vorum, og í háskólum vorum og öðrum œðri menntastofnunum vorum var hæðzt að sannindum kristindómsins. Vér œddum áfram, dauðþyrstir eftir auði og upphefð, snúandi bakinu að guði og frelsaranum."

,,Þá allt í einu lét guð hræðilega þögn koma yfir alla. Þjóðin stóð mállaus og grét. Fregnin um skammbyssuskotið í Buffalo kvaddi landslýðinn á einu augnabliki til að nema staðar og fara að hugsa sig um. Fórnarlambið lá á altarinu og menn gengu með lotning þangað að til að sjá." — —

,,Á þennan hátt kallaði guð á þjóðina alla til þess hún gæti virt fyrir sér sannan mann. Þar sýndi guð oss enn þá einu sinni mann úr gamla skólanum góða, stilltan og hugrakkan, mann, sem unni konu sinni og vinum sínum og trúði á Jesúm Krist sem persónulegan frelsara sinn." — — —

,,Og vér höfum síðan verið gætnari en áðr. Þjóðin hefir lært þá lexíu, sem hún gleymir ekki svo fljótt."

,,Svona fer guð að því að kenna oss að biðja: Verði þinn vilji."

## Missíónarprestr kirkjufélagsins, sem nú er.

Séra Jón J. Clemens kvaddi söfnuðina í Argyle sunnudaginn 20. Okt. (20. e. trín.) á mjög fjölmennri guðsþjónustusamkomu í hinni sameiginlegu kirkju þeirra safnaða. Hann fermdi þá og 22 ungmenni og tók til altaris rúmlega tvö hundruð manns. Næsta dag að kvöldi héldu söfnuðirnir séra Jóni og konu hans skilnaðarsamkvæmi í kirkjunni með rœðuhöldum og söng. Í nafni sunnudagsskólans og bandalagsins voru honum þar flutt kvæði, sem þeir Sigrbjörn Jóhannsson og

Lárus Nordal höfðu orkt. Þar var honum mjög hlýlega þakkað verk hans á liðinni tíð og þeim hjónum árnað blessunar framvegis. Bandalagið fœrði séra Jóni við það tœkifœri dýran göngustaf að gjöf og sunnudagsskólinn skrautbúna biblíu. Og frú Clemens gáfu safnaðakonur til minningar armband úr gulli.—Kærleiksmerki þau, sem í þetta skifti komu svo skýrt fram frá fólkinu í Argyle séra Jóni til handa, glöddu víst ekki að eins hann og konu hans, heldr einnig marga aðra.—Séra Jón hefir verið prestr Argyle-safnaða síðan hann tók vígslu á kirkjuþinginu 1896, sem haldið var þar í byggðinni.

Síðan séra Jón Clemens hætti starfi sínu í Argyle-byggð hefir hann verið missíónarprestr kirkjufélags vors og verðr það fram undir jól.

Viku eftir að hann kvaddi Argyle-söfnuðina var hann kominn til Þingvalla-nýlendu í Assiniboia. Tvo sunnudaga prédikaði hann í samkomuhúsi safnaðarins þar—27. Okt. og 3. Nóv. Hinn síðara sunnudag fermdi hann 7 ungmenni og tók nokkurn hóp manna til altaris, rúmlega 30. Tvær aðrar guðsþjónustur hafði hann með fólki byggðarinnar á virkum dögum: 31. Okt. og 5. Nóv., hina fyrri að Lögbergs-pósthúsi, en hina síðari í skólahúsinu í vestrhluta Þingvalla-byggðar. Hann var og á safnaðarfundi þar 4. Nóv., og sömuleiðis á tveim kirkjumálafundum, er utansafnaðarmenn héldu 2. og 5. Nóv.

Utansafnaðarmennirnir, sem héldu fundi þessa, heyrðu áðr Þingvallanýlendu-söfnuði til, flestir eða allir. En sökum ágreinings út af guðsþjónustu-stað byggðarinnar, gengu þeir út úr söfnuðinum síðastliðinn vetr. Fundirnir, sem haldnir voru bæði af söfnuðinum og hinum mönnunum meðan séra Jón J. Clemens dvaldi þar í byggðinni, leiddu nú til þess, að ágreiningrinn varð útkljáðr. Niðrstaðan varð sú, að hinir úrgengnu menn mynduðu út af fyrir sig nýjan söfnuð, 5. Nóv., og heitir hann *Konkordía-söfnuðr*. Sá nýi söfnuðr samþykkti breytingalaust safnaðarlaga-frumvarp það, sem kirkjufélagið hefir samið söfnuðum sínum til leiðbeiningar, og ályktaði um leið að sœkja um inngöngu í kirkjufélagið. En hinsvegar tjáði

þingvallanýlendu-söfnuðrinn gamli hinum nýja söfnuði vinarhug sinn með því að bjóða honum samkomuhús sitt til afnota ókeypis fyrir guðsþjónustur sínar og aðra fundi, og jafnframt skyldi Konkordía-menn vera hjartanlega velkomnir framvegis á allar samkomur eldra safnaðarins. þetta eru víst þau langbeztu úrslit á kirkjumála-ágreiningnum í þingv.nýlendu, sem fengizt gátu. Væntanlega verðr þetta allt til blessunar.

Fjögur börn skírði séra Jón Clemens í þetta skifti í byggð þessari.

Báðir söfnuðirnir eru til þess búnir að ráða sér prest framvegis svo fljótt sem nokkur slíkr vel hœfr maðr verðr fáanlegr.

Úr þingvallanýlendu fór séra Jón J. Clemens 6. Nóv. suðr til Íslendinga í Vatnsdalsbyggð við Qu'Appelle-ána, prédikaði í samkomuhúsi þeirra sunnudaginn 10. Nóv. og skírði 3 börn. Hann telr líklegt, að þar myndist söfnuðr innan skamms. Í þá byggð eru nokkrir landar vorir að flytja frá Norðr-Dakota, sem væntanlega verða styðjandi að safnaðarmyndan.

Í kirkjufélagssjóð lofaði þingvallanýlendu-söfnuðr að leggja $20.00 sem þóknun fyrir komu séra Jóns J. Clemens þangað. Konkordía-söfnuðr afhenti honum kirkjufélaginu til handa $10.00, og fólkið í Vatnsdalsbyggð $8.10.

Frá Qu'Appelle ferðaðist séra Jón J. Clemens alla leið vestr til Calgary og þaðan til Íslendinga-byggðarinnar út frá Tindastóls-pósthúsi í Alberta. Var hann þangað kominn í miðjum Nóvember og hefir verið þar síðan. Frá starfi hans í Alberta-söfnuði mun verða skýrt í næsta blaði ,,Sam."

---

,,Verði ljós!" minnist í Október-blaði sínu á prestaskortinn í kirkjufélagi voru hér vestan hafs, og leggr það til, að ungir og efnilegir guðfrœðingar, sem ekki enn hafa náð embættum á Íslandi, ráðist hingað í því skyni að vinna með oss í prestlegri stöðu um lengri eða skemmri tíma. Búizt er þar við, að sumir slíkra presta myndi seinna hverfa aftr heim til

Íslands, og þá myndi reynsla þeirra hér geta orðið til lífsglœðingar í heimakirkjunni. Að því leyti myndi koma guðfrœðinga frá Íslandi hingað verða bæði oss hér og brœðrum vorum þar til góðs. Þetta er vingjarnlega og virðulega sagt oss til handa. En allt er þar undir því komið, að til þessa veldist þeir menn, sem í alla staði mætti treysta að því er snertir hinn siðferðislega „karakter“ — menn kristilega hugsandi, haldandi fast við trúarjátning lútersku kirkjunnar og stefnu kirkjufélagsins íslenzka hér algjörlega samþykkir. Hefði slíkir guðfrœðingar frá Íslandi ekki þessa eiginlegleika, þá væri koma þeirra hingað alls ekki œskileg. Margt hefir í liðinni tíð komið fyrir kirkjufélag vort, sem ætti að hafa kennt oss að vera varkárir andspænis guðfrœðingum eða prestum heiman að. En kœmi einhverjir þaðan, sem í alla staði eru líklegir til þess að verða málefni guðs ríkis hér að liði, myndi það að sjálfsögðu verða oss hið mesta fagnaðarefni. En langbezt væri slíkum mönnum að ganga svo sem einn vetr á einhverja góða guðfrœðilega menntastofnan hér í Ameríku, lútersku kirkjunni tilheyrandi, áðr en þeir tœki við prestsembætti í sambandi við kirkjufélag vort. Og myndum vér þá helzt til þess ráða að til þess veldi þeir sér prestaskólann í Chicago, sem dr. Weidner veitir forstöðu. Þar myndi áreiðanlega verða að þeim hlynnt með öllu móti og kostnaðrinn við dvölina þar myndi ekki verða þeim mjög tilfinnanlegr.



Mjög stórkostleg og víðtœk hreyfing er í allra síðustu tíð komin fram í Danmörk, sem ef til vill hefir þá afleiðing, að fjöldi fólks gengr út úr ríkiskirkjunni (eða þjóðkirkjunni) þar. 855 danskir prestar sendu kirkjumála-ráðgjafanum ávarp, sem fór fram á það, að sett væri sérstök kirkjumálanefnd fyrir landið kristninni þar til eflingar. En ráðgjafinn kvaðst því að eins vilja styðja þá beiðni, að báðar deildir ríkisþingsins væri nýmælinu samþykkar. Og sökum þess að lítil eða engin von þótti vera um slíkt samþykki í ríkisþinginu varð megn óánœgja meðal prestanna. Þeir kvöddu þá til afar fjölmenns kirkjuþings í Óðinsvé á Fjóni seinast í Október í haust. Þeir, sem þar komu saman, voru 1,500 að tölu. Menn hinnar svo nefndu „innri missíónar“ stóðu þar helzt fyrir málum. Vilhelm Beck prestr, leiðtogi þeirra, er nú fyrir skemmstu and-

aðr. En áðr en kirkjuþing þetta kom saman flutti málgagn þeirra ýmsar mjög stórorðar greinir, sem miðuðu að því að œsa kirkjulýðinn gegn stjórninni. Ályktanir kirkjuþingsins snerust nú aðallega um umbót þá á stjórn hinna andlegu mála, er ráðgjafinn hafði áðr verið beðinn um. En óánœgjan er orðin svo mikil með ríkiskirkju-fyrirkomulagið þar í landi, að vel getr svo farið, að engin tilslökun frá stjórnarinnar hálfu dugi til þess að friða menn. Vilhelm Beck hafði oft fastlega verið hvattr til þess af áköfustu fylgismönnum sínum að hrífa ,,innri missíónina" út úr þjóðkirkjunni. En hann veitti þar viðnám. Nú eftir að hann er fallinn frá eru miklu meiri líkur en áðr fyrir því, að sá fjölmenni kirkjumannahópr taki sig út úr. Og margir, sem ekki heyra þeirri flokksstefnu til, virðast líklegir til að vera með í úrgöngunni. Grundtvigsmenn segjast í lengstu lög ætla að halda sér kyrrum í þjóðkirkjunni, en að eins fjórðungr dönsku prestanna heyrir þeim flokki til.

þjóðkirkjunni á Íslandi getr orðið hætt, ef umbrot þessi með Dönum breiðast út þangað.

---

Nýlega er í Reykjavík út komið kver, sem hefir inni að halda úrval eftir séra Jón Helgason af *sálmum og andlegum ljóðum* — 100 að tölu — til notkunar í barnaskólum og við barnaguðsþjónustur. Sálmarnir flestir eru úr sálmabókinni. Niðrröðunin er þessi: morgun, kvöld, jólin, nýárið, skírdagr, föstud. langi, páskar, uppstigningardagr, hvítasunna, sunnudagrinn, árstíðirnar (þessir flokkar ná aftr að nr. 66 í kverinu), kristileg trú og líferni (nr. 66—91), ættjörðin, kirkjan, skólinn. — Aftan á fyrirsagnarblaðinu er prentað versið: ,,þeim ungu legg þitt orð í munn" og séra Valdemar Briem talinn höfundr þess, en hann hefir að eins vikið orðalagi þess dálítið við—auðvitað til bóta—frá því, sem áðr var í gamla fermingarsálminum, er sunginn mun hafa verið í hverri einustu kirkju á Íslandi alla nítjándu öldina. Sálmrinn var þýddr úr dönsku um næstsíðustu aldamót handa sálmabókinni íslenzku, er tók við af Grallaranum (,,þessi dagr, ó guð, vor guð", í nýju bókinni ,,Lát þennan dag, vor drottinn, nú"). það eru fleiri svona lagaðar söguvillur í kverinu. þannig er sagt, að höfundr sálmsins ,,Við freistingum gæt þ'n" sé danskr. En það er þýðing hins alkunna enska sálms ,,Yield not to temptation" eftir H. R. Palmer. Og um versið ,,Kom, huggari, mig hugga þú" er sagt, að séra Valdemar Briem sé höfundr þess, þar sem hann þó að eins hefir þýtt það úr dönsku.

Ekki er heldr sálmrinn ,,Ó, þá náð að eiga Jesúm" nema að þýðingunni til eftir séra Mattías Jokkumsson (,,What a friend we have in Jesus" eftir Horatius Bonar).—Óviðkunnanlegt er að nafngreina ekki höfunda hinna útlendu sálma, en þar á móti setja nöfn þýðenda. Aðal-maðrinn verðr þó æfinlega sá, sem upphaflega orkti sálminn, en ekki sá, er honum sneri á vora tungu. — Um höfund sálmsins ,,Heyr mín hljóð" er sagt, að hann sé óþekktr. En dr. Jón þorkelsson hinn yngri hefir í bók sinni ,,Om Digtningen paa Island í det 15de og 16de Aarhundrede" frœtt oss um það, að Bjarni Jónsson Borgfirðingaskáld sé höfundr þess sálms.

---

Ofr lítið ljóðasafn eftir Hannes S. Blöndal er fyrir skemmstu út komið hér í Winnipeg. Kvæði hans eru lipr og þýð. Mest af því, sem er í þessu safni, er orkt á Íslandi. Fyrsta kvæðið er jólakvæði frá því í fyrra. Kristin trú og íslenzk ættjarðarást renna þar saman í eitt. Mynd höfundarins er framan við kvæði þessi. þessi litli bœklingr er viðbœtir hins meira kvæðasafns hr. Blöndals, sem kom út í Reykjavík fyrir tíu árum. þar er mynd höfundarins eins og hann var þá.

---

Tveir Íslendingar eru í prestaskólanum lúterska í Chicago í vetr. Annar þeirra er Kristinn Ólafsson frá Garðar, sem lauk sér af við Gustavus Adolphus College í St. Peter, Minn., síðastliðið vor. Hinn er Pétr Hjálmsson frá Duluth, Minn., sem fyrir nokkrum árum tók guðfrœðispróf við prestaskólann í Reykjavík. Hálft þriðja ár er liðið síðan hann kom vestr frá Íslandi.

---

Hr *Ólafr S. Þorgeirsson*, 644 William Ave , Winnipeg, er féhirðir ,,Sam."

---



---

,,SAMEININGIN" kemr út mánaðarlega,12 nr. á ári. Verð í Vestrheimi: $1.00 arg.; greiðist fyrir fram. —Skrifstofa blaðsins: 704 Ross Ave., Winnipeg, Manitoba, Canada. — Útgáfunefnd: Jón Bjarnason (ritstjóri), Friðrik J. Bergmann, Ólafr S. Þorgeirsson, Björn B Jónsson og N. Steingrímr Þorláksson.